# Þegnskylda
# Almúgans á Íslandi,

edr

## árligar Skyldu-greidslur og Qvadir;

samanskrifud á Dønsku

af

Hans Jacob Lindahl,

og

prentud í Kaupmannahøfn árit 1788;

en nú íslendskud

af

Biarna Einarssyni
fyrrum Sýslumanni í Bardastrandar-sýslu.

Prentud á ný í Kaupmannahøfn 1792,
hiá J. R. Thiele.



# Formáli.

Hér sér lesarinn einn ritling, sem Hr. Hans Jakob Lindahl hefir á dønsku samsett, um Almúgans skyldu-greidslur á Íslandi, edr þegnskyldu. Orsøk til þeß at eg hefi hann íslendskat, var gagnsemi sú, sem eg hugda at løndar mínir kynnu at hafa af honum, hellst almúginn, því margr veit eigi hvat hann á at greida, þverskallaz því ámóti løgum, sem er ósómi hinn mezti; því hvat mun sá Gud óttaz, er hann sér eigi, sem eigi óttaz edr hlýdir Kónginum, hver her á jørdunni er yfir oß í Guds stad settr? O! at vér værum sú þiód, sem heldr ødrum fremr, enn ødrum midr, hefdi nafn af því, at hlýddi Kóngi sínum og løgunum. Þat segi eg (þó máltækit sanniz, því verr! optar enn skyldi, at margr giørir verr enn hann veit,) at þorra almúga-fólks á Íslandi velldr þeckingarleysi um þat sem vera á; svo lengi hefi eg átt at heita ..r yfirvald, at eg mætti géta sagt rétt um

þetta,

þetta, og þat af reynslunni. Gæta eg nú eitt hvat styrkt til at nidrbrióta þetta skadlega þeckíngarleysi, edr vaukunnáttu, þættiz eg madr at meiri.

Þeßi útlendi madr á Islandi Hr. Lindahl hefir giört hér eitt ágætt þarfa-verk, at koma allri almúga-skyldunni í eitt saman, at hverri til forna mátti vída leita, og sumt þarum var eigi í margra høndum. Nú var almúganum á Islandi, sem eigi skilr edr les danskar bækur, at fráteknum einstaka manni, þetta eins hulit eptir sem ádr, syndiz mér því stór naudsyn, at snúa þessum ritlingi á íslendsku. Hér og þar hefi eg bætt vid hann athugasemdum, sem eg ætladi til, at heldr skyldu auka hann enn rýra, svo at því meiri yrdi nytsemi hans, og þat rétt til at uppfylla ritarans góda tilgáng at samansetia hann, en eingaunveginn hønum til vanvirdu; og vildi enn nockr hér um bæta og vid-auka, þá er eg hønum um þacklæti skyldugr.

Biarni Einarsson.

---



Sú almenna Þegnskylda á Íslandi er med sérlegu ásigkomulagi; hún er ecki at ǫllu leiti bygð á lǫgum, heldr at miklu á vana og vidtekium [1]). Sá sem nú eigi veit þetta, er eigi megnugr, hve miklu hann til-kostar, og þat jafnvel þótt hann hafi undir hǫndum íslendskra laga og Kóngsbréfa safn, at ná fullri þeckingu hér um; ecki er heldr almúgi ánægianliga fródr á Kóngs-brefum þeim, sem hlióda um mikinn part álaganna; Serílagi útlenda Danska fólkit, sem er þar í landinu; því þat skyniar alls ecki um þat, sem liggr á landsmǫnnum; skyldi því mikils meta, hvat sem giǫrdi þat hyggit hér um, nær sem til skyldi taka; og af þeim rǫkum leidir þat, at ritlíngr þeßi er samanskrádr. Tala eg því um hveria skyldu útaf fyrir sig, og í fyrstu um þá, sem liggr á bændum, svo sem leigulidum; því næst um þá, sem almúga vidvíkr almenniliga, og þar í útaf fyrir sig, þat sem gialdaz á til kirkna og klerka,

[1]) At þat má eigi reida sig um vana og vidtekiur, fremr enn lǫg og naudsyn leyfir, því naudsyn brýtr lǫg, og hefdin ein giǫrir vana og vidtekiur at lǫgum, annars gildir þat ecki.

klerka, og at sídustu um þá tídkanlegu skyldu-þiónkan.

Í fyrsta flockinum eru þá: 1. Landskyld-ir. 2. Rúgilda-leigur. 3. Mannslán. 4. Dagslátta. 5. Hrísheſtr. 6. Sérlegar álögur edr skylduverk í Gullbríngu-sýslu og Mosfells-sveit; fernt þat seinasta þeckiz undir nafninu Qvadir (á densku: Hoverie).

Í ødrum flockinum er: 7. Tíund. 8. Skattr. 9. Giaftollr. 10. Manntals-fiſkr. 11. Tugthúß-tollr. 12. Fátækra framfæri. 13. Løgmanns-tollr. 14. Dýra-tollr. 15. Hoſpitals-hlutr. Kirkium og Klerkum vidvíkr: 16. Lausamanns-tollr. 17. Liós-tollr (Lýsis tollr). 18. Sætis-fiſkr (Kirkiu- og Stada-fiſkr). 19. Offur. 20. Dags-verk. 21. Hey-tollr [*]).

Í þridia flockinum: 22. Vegabætur. 23. Kirkiu-erfidi. 24. Þínghúß-bygging og vidhald. 25. Fríflutníngr Embættis-manna. 26. Fánga-færſla, og 27. Fiall-gánga.

## I.

Kém eg þá fyrſt til Landskuldar, og er hún leiga sú, sem bændr gefa lands-drottni fyrir

 ábúd

*) Her til mætti leggiaz Leg-kaup og Líksaungs-eyrir, auka Embættis-verk Preſta, Tollar (Brúar, feriu, og Bola-tollr), Skips-uppsátr, edr lódarfiſkr, og fleira.

ábúð á jørdu hans; hún er at vísu bygð á løgum; samt er hún ecki í þeim áqværdud, heldr því gagnstædt segir Landsleigubálks 1te Cap.: at Leiga skuli innaz, slík sem þeir verda ásáttir; þar ámóti er hún eptir gamalli veniu uppteiknud í jardabókunum, hvar af hún því fremr styrkiz, at í Forordn. af 5ta Maji 1705 er bodit, at allir Húsbændur (eda Landsdrottnar) og þeir ed kunna at hafa nockut af Kóngsins jørdum til umráda; meiga eigi leggia á þeirra bændr nockur ný-þyngsli, fram yfir þau sem á sømu jørdum hafa verit frá allda-ødli, undir þrefaldt svo miklar bætur. Þvínæst vidvíkiandi þeim Kónglegu, sem og þeim Beneficerudu (Presta og Kirkna) fasteignum, þá er þat bannat, at minka landskuldir á þeim; bodit er líka í Kóngsbrefinu (Rescriptinu) af 19da Maji 1783, at Kóngsjarda umbodsmenn megi eigi byggia burt umráda-jardir þeirra med minna eptirgialdi, enn stendr í þeirri Kóngl. jarda-bók, hvat þeim byriar at hafa uppskrifat; á sama hátt er og í Cancellie-brefinu af 25ta Júníi 1784 bodit, at þær Beneficerudu fasteignir megi eigi byggiaz burt med minni landskyld, enn at réttu á at gialdaz eptir jarda-bókunum. En þeþar jardabækur eru nú margvíslegar. Sú yngsta af þeim er þat svo kallada harmoniska ágrip, sem Landfógetinn Skúli Magnússon tók saman árit 1768 edr 1769; hinar undan-geingnu vóru:

ein

ein af 1597 í þvi Kónglega Rentukammers-Archive edr skiakahirdslu; ennur Jóhanns Kleins frá 1639 yfir Kóngsins fasteignir; þridia samaslags frá 1660; fiórda ein ennur af Klein, samin 1681, hún innibindr líka Bænda-eignir, og skal hún vera hin fyrsta yfir þær. 5ta er ein frá 1695 yfir allt landit, samantekin af ellum Sýslumennum á Þingum; og 6ta Arna Magnússonar, frá 1702 til 1714, sem haldin er hin fullkomnasta og bezta. Eptir gamalli reglu segia menn, at landskuldin skuli almennt vera eptir jardar-dýrleika, og svo er hennar upphæd tiltekin í jarda-bókinni; þannig geldz 1 ℔ (120 álnir) edr 4 rdl. 24 ß. af 20 ℔ jordu, edr 85 rdl. at verdlagi (gildi); hver regla einnig er tiltekin í einni Kónglegri Forordníngu um sérdeilislega hiálp í ófridi frá Islandi, af 31ta Maji 1679, og er hún þar höfd fyrir grundvöll, til at jafna nidr skattinn [3]). En hversu sanngiarnleg sem þeßi regla nú er, þá er hún þó eigi allstadar samstemma vid jarda-bækurnar; því þær tiltaka ecki dýrleikann á stundum; og stundum af því at fasteignirnar hafa verit undir orpnar jafnad-

 arlegum

[3]) A vestrlandi verdr aldeilis eingin föst regla af þeßu tekin, því þat geingr yfir og undir; þar at auki eru jardirnar svo mis-dýrar, at 1 ℔ af annari fæzt varla fyrir 20 rdl., en af hinni kaupiz þat med 2 rdl.; en siálf-sagt er, at eptir fornguldu var 2ia aura edr 12 álna landskuld af hveriu jardar-hundradi.

arlegum umbreytíngum, þá mismunar þat mieg, hvat jardir í siálfu sér eru verdar, og hvat þær eru dýrar skrifadar (at hundradatali). Í jarda-bókunum er landskuldin nidr-rodud í hundrud, og álnir, vættir og fiska: eiginlega á landskuld at lúkaz í svo kolludum skileyri, edr þeim varnzíngi, sem jarda-bókin og byggíngar-skilmálarnir áqveda, ef þeir eru til; siá Kaupab. 5ta Cap. Þat er þá alleinasta í þeim tilfellum, þegar leigu-lidinn á ecki þann varníng, at hann í haus stad má greida peninga edr adra voru; á þó oll sú vara, sem lykz í landskuld, at vera útgeingilig, svo sem Kóngsbrefit af 28da Maji 1777 tiltekr. Þegar eckert er sérílagi tiltekit í byggíngar-brefinu um þvíumlíkt, þá reiknaz 1 ᛘ almenniliga fyrir 4 rdl. Cróner, edr 4 rdl. 24 ß. Courant *); Vid siáfarsídu sumstadar fyrir 5 rdl. Specie, edr 5 rdl. 60 ß. í Courant edr gángsilfri; verdr þá hvor alin 2 fiskar, og hverr fiskr $2\frac{1}{4}$ ß.; en af Kirkiu-stada fasteignum til sveita, fyrir 4 rdl. Specie, edr 4 rdl. 48 ß. Courant, eptir Reglementinu fyrir Kirkna- og Presta-tekium af 17da Júl. 1782. Ein vætt af fiski þar ámóti gildir 40 fiska, en lykz sumstadar med 90 ß. Courant, verdr þá hverr fiskr $2\frac{1}{4}$ ß., og sumstadar, nefniliga á Kóngsins fiski-jordum, med 1 rdl. 57 ß. Courant,

*) At taka nú 4 rdl. Crón. í móti 120 ál. er eigi sanngiarnlegt, því þar gefaz eingar 120 ál. af varníngi svo verdlitlar, heldr eru nú uppstígnar til 6, 8, 10, iá 18 rdl.

rant, eptir Kónglegri Resolution (úrskurdi) af 29da Júlii 1779 [5]). En þar á hún nú at lúkaz eptir seinara úrskurdi af 13da Junii 1787, med eintómis fiski; eins líka á prestabrauda fasteignunum vid sióſídu; þar sem fiski-afli fellr, borgaz vættin med 1 rdl. 57 ß. eptir ádr áminnstu Reglimenti af 1782, sem enn nú stendr óumbreytt. Landskuld á at greidaz at endudu fardaga-ári.

2.

Kúgildis-leiga er leiga sú, sem eigendum svaraz af einu kúgildi, þat er af einni burtleigdri kú, edr 6 ám, sem fylgia sumum fasteignum, sem Innstædu-qvikfé edr járnfé (Lat. vaccae ferreae) [6]). Sumstadar er þvílíkr fiøldi af þeßu, at jørdin flytr eigi stórum meira, enn landeigandans kúgildi; leigan er 2 fiórdúngar smiørs árlega, sem greidiz á haustin í því, ef til er; en annars verd þeß med peníngum. Þegar svo ber vid, þá leggr Reglimentit frá 17da Júl. 1782 verdit á leiguna á þeim geistlegu fasteignum $52\frac{1}{2}$ ß., en á Kóngsins jarda-góðsi eptir Kóngs-úrskurdi af 13da Júníi 1787, 45 ß. fyrir



5) Hefdi vid þeßa Resolútión stadit, þá mundi einginn jardar-eigandi feingit hafa landskuld í fiski, þar peníngarnir eru varla helmingr af fiski-verdinu.

6) Inventarii edr Innstædu-qvikfe er þat, sem ávallt skal fylgia, og járnfe er þat, sem aldregi má eydaz; á því at vidhaldaz, og uppýngiaz.

hvorn fiórdúng edr 10 ℔ smiørs. Leigan er bygd á legum, og í þeim er hún med fylgiandi grein áqvørdud: at einginn skal dýrra selia málnytu-kúgildi á leigu, enn ij. fiórdúngum smiørs, edr ala iiij. lømb eptir kúgildi, og ábyrgiz sem fúlgufé; Kaupab. 15da Cap. Þetta er stødugt um hvørt eitt leigu-kúgildi almennilega, en Jónsbókin setr eingin føst kúgildi uppá leigulidann, ímóti hans eigin gedþeckni, sem séz af næztfylgiandi 16da Cap. (í Kaupabálki); hvar þat leyfiz þeim, er leigir, at segia ábyrgd sína af kúgildinu, þegar hann vil ecki hafa þat leingr á leigu; þat er því miklu heldr gømul venia og hefd, sem hefir innsett þeßi føstu kúgildi, og sídan má segia, at þat sé samþyckt um almennar fasteignir; því þat eru einasta þau ofmørgu kúgildi á presta-brauda fast-eignunum, sem fargaz meiga, eptir því sem Biskup og Prófastr segia fyrir; en af því kónglega jardagótsi meiga eingin fargaz, utan þar til fáiz ein sérlig tillátsemi. A þeßum fasteignum má þá kúgilda-leigan reiknaz sem stødugt afgiald, er greidiz af jørdunum. Til eru þeir, sem svara eigi nema hálfri kúgilda-leigu, svo sem kirkna-eigendr, hvørir ed hafa kirkna-kúgildin undir hendi; Prestrinn fær þá hálfu leigu af þeim, svo sem adra greidslu, er hans braudi fylgir; en eigandinn tekr hina hálfu leigu siálfr, enda er kúgildit ávallt í hans ábyrgd 7).

3.

7) Þó þat se sannleikr, at kirkiu-eigandi svari Prestinum hálfum leigum, þá kemr þat lítit her

3.

Manns-lán er þegnskyldu-tegund, upp-sprottin af gamalli venju, at leigu-lidar og hjáleigu-menn hljóta, þar sem þat hefir frá aldødli venia verit, og undir eins er tilskilit í Byggíngar-brefinu, at róa á húsbóndans skipi heldr enn annara, edr at kaupa sig undan því. Sumstadar fer sú fregn af, at þetta mannslán sé ordit at ósid, þannig: at einn, sem manns-láni á at svara, en á siálfr skip, sem hann vill fara med til siáfar, er neyddr til, at láta þat standa ardlaust uppi, en róa á húsbóndans skipi. Óhagr sá, sem leiguliðinn edr hjáleigu-madrinn hefir hér af, er þar í innifalinn, at med því at róa á skipinu húsbóndans, þá mißir hann allann sinn skiphlut, sem hans eigin skipi hefdi skiptz af aflanum; þeßi skiphlutr, sem þannig fellr til húsbóndans, er almenniliga miklu stærri enn hófi gegnir. Ef nú leiguliðinn edr hjáleigu-madrinn reri sínu eigin skipi, þá tæki hann siálfr skiphlutinn, og þá ætti hann líka hægra at fleyta sér fram og fólki sínu.

Á Kóngs-jørdunum í Gullbríngu-sýßlu, hvar bændr leggia eigi framar til mann á skip, greida þeir 1 rdl. í stadinn, eptir Kóngs-brefi af

vid; því kirkian og allt hennar er í vißann máta hans eign, sem eigi má frá honum takaz, uns hann giørir sig brotlegann vid hana med ólídandi ósķilum.

af 13da Júníi 1787, og ſama er uppþæd þeß á hinum Kóngs-jørdunum, er ná til fiſki-afla, og manns-lánit eiga.

Á Skálholts Biſkups-ſtóls jørdum er þar ámóti manns-lánit í jardakáupa ſkilmálunum af 27da April. 1785 eldúngis upphafit [8]); og med því at í friþøndlunar Fororduíngunni af 13. Júníi 1787, 2 Kap. 5ta Art. finnz ſú linkynd, at þeir ſem fara med høndlun og hafa bólfeſtu, meiga ráda á ſkip ſín hiáleigu-menn og búdar-menn, ſem ecki vidkoma þeßari þeirra bólfeſtu, og

[8]) At víſu er þar manns-lánit aftekit, en bágt á eg med at ſkilia, á hvøriunt føſtum fótum þat ſtendr; því í jarda-uppteiknaninni ſtendr manns-lánit vid hvøria jørd, og þat til þeß, at þat eykr dýrleikann á jørdinni edr hundrada talit, til dæmis: í Hollta-þingſókn, Fiørdr, landſkuld 60 álnir, en jørdin er ſett 12 hndr. 40 ál.; þar ámóti í Reidarvatns-þingſókn Eyſiri-kirkiubær landſkyld 60 álnir, her er manns-lán, heſt-lán og dagsverk, og þeßi jørdin er þar fyrir ſett 17 hndr. 80 ál. Ver og ſaman Einarshøfn og Refſtock í Stockseyrar-ſókn, ſem eru misjafnar at hundrada tøln, þó landſkuld ſe ſama, því manns-lánit var med henni fyrri. Og ſvo finnz þat vídaſt ef eigi allſtadar; en þat er ámóti minni vitund, at greindar ſtóls-jardir, ſerdeilis í Arnes-ſýſlu, væri ſvo ádrtaldar til hundrada; kallar eg ſvo kaup-endr jardanna hafa keypt manns-lán, heſt-lán og dagsverk; mun þeim því þykia ójøfnudr at miſſa þau, og hafa eckert í þeirra ſtad; hitt er þá nær, at leiglidar meigi gialda þau nú ſem fyrri í peníngum edr einhverju ødru.

og ecki eiga siálfir báta. Somu Forordníngar 3 Kap. 1 Art. eykr og vonina um þat, at annathvort muni manns-láníð aftakaz, edr og verda linun á því í ødrum plátsum, hvar þat liggr á.

## 4.

Dagslátta; þat er at leigulidar á eigi allfáum jerdum í Gullbríngu-sýslu og Mosfells-sveit í Kiósar-sýslu, lika sumstadar á prestakalla-jørdum, hvar þvílíkt frá ald-ødli hefir venia verit, slá um heyskapar-tímann vøll einn fyrir húsbóndann, ferhyrndann, 30 fadma á hvørn veg; ef vøllurinn er þýfdr, er venia, at stíga nidr vadinn vid adra edr þridiu hveria þúfu [9]). Dagslátta er komin af gamalli veniu, og løgtekin á Kóngs-jørdum í Rentukammers úrskurdi til Amtmanns Müllers af 15da Aprilis 1695, 4da pósti, sem sídan er skráð í jarda-bækurnar. Þeir dag-slættir

[9]) Miklu ágreinir um dagsláttu; Páll Vídalín byggir á beztu røkum, at hún eigi at vera 30 fadmar á hvørn veg, ferhyrnd, af medalmanns fødmum, edr 65 þumlúnga fødmum (3 hamborgar álnir); verdr þat eptir eldsíu qvørdum $3\frac{1}{2}$ al. í fadmi, og fadmurinn (eda málfadmr þessi) $3\frac{1}{2}$ alin; og vøllurinn verdr þá 900 fadmar ferskeyttir. En se þetta nú mælt med Sellands alin, þá verda í vellinum 1225 medalmanns fadmar, ferskeyttir, sem er at mínu viti ofætlan; naudsynlegt væri, at Kóngr vorr at nýu áqvardadi dagsláttu-mælir, sem og hvat lúkaz skyldi þar fyrir í smiøri, varningi edr peníngum.

slættir, sem greidaz af Kóngsins jørdum í Gull-bringu-sýslu og Mosfells-sveit, eru sumir lagdir í þann Kónglega Kassa, adrir veittir Stiptamtmanns edr Amtmanns setrinu Bessa-stødum, og hinir Landfógeta bólstadnum Videy; þeir sem lagdir eru í Kóngsins féhirzlu, lúkaz í peningum med 10 fiskum, sem eru 22½ ß.

5.

Hrís-hestr, eda svo mikit af hrísi edr kvist-um úr birkiskógi, sem einn hestr ber; hann er fluttr af Kóngs-jørdunum í Gullbringu-sýslu og Mosfells-sveit, og skiptiz ámilli Kóngsins fehirdslu, Bessastada og Videyar; þeir sem lúka hann til Kóngsins kassa, greida 5 fiska, þat er 11¼ ß.; af einni jørdu er svarat 1 edr 2 hrís-hestum, eptir því sem skrád er í jarda-bókinni. Þeßi qvød er komin í hefd af veniu, og á sama hátt sem dagsláttan løgtekin í Rentukammers úr-skurdinum af 15da Aprilis 1695.

6.

At sídustu eru á nockrum Kóngs-jørdum í Gullbringu-sýslu og Mosfells-sveit fastar Qvadir eptir seinustu jarda-bók og gamalli veniu; nefnilega í Reykiavíkur og Mosfells-þingum, vinna Kóngs-bændur hýsingar torf-verk vid Gufuneß-spítala. Þeir greida og hey til fódurs nautum þeim, sem fara úrlendis á

fálka-

fálka-skipinu, og fálkarnir lifa af fram yfir hafit. Túngardinn á Bessastødum, sem er griót-gardr, endrbæta bændurnir í Mosfells-sveit. Kóngs-bændur í Hausastada þínghá (eda þíngá) færa mó eda skurdartorf heim at Bessastødum; þeir feria og heim þángat úr kaupstad vøru þá, sem Stiptamtmanni flytz úr útlendum á sumrum; og er qvød þeßi, eins og hinar fyrri, bygd á ádr-tedum úrskurdi frá 1695.

## 7.

Tíund er sú eldsta skyldu-greidsla; hún er reiknud eptir Gißurar Biskups Ísleifs-sonar Tíundar-statútu af 1098 (sem er fyrsta løgmál fyrir henni) $\frac{1}{100}$ partr af øllu fé lausu og føstu, og skiptiz í fióra hluti; einn fer til Kóngs, annar til kirkiu, þridie til prests, og fiórdi til fátækra, og gengr til fátækra alleina, ef tíund er minni enn 6 álnir [10]), eptir Arna Biskups Kristin-rétti. Kóngsins fiórda part af tíundinni áttu Biskupar til forna, en árit 1556 tók Kóngurinn hann til sín.

Reikníngrinn verdr á fylgianda hátt: af 10 aurum edr ½ Rd. geldz 1 alin, af 1 Rd. 2 áln., af 2 Rd. 3 áln., af 3 Rd. 4 áln., af 4 Rd. 5 áln., af 5 Rd.

[10]) Tíund minni enn eyrir edr 6 álnir geldz til fátækra; en þat á at skiliaz um lausafé, en eigi fasteignir; af þeim skiptiz alltíd tíund í fióra stadi, þó fasteignin se eigi nema 1 Rd.

5 hdr 6 ál.; þetta er reglan edr reikníngurinn sem Tíundar-statútan siálf tilskipar,[11]); en um þat hvernig tíundin skiptiz framvegis, þegar hún er meiri enn 5 hdr[12]), koma á veg fyrir oss 3 adgreindar meiníngar; hin fyrsta telr þannig: af 6 hdr $7\frac{1}{5}$ alin, af 7 hdr $8\frac{2}{5}$ alin, af 8 hdr $9\frac{3}{5}$ alin, af 9 hdr $10\frac{4}{5}$ alin, af 10 hdr 12 álnir, og svo áfram, at af hveriu hundradi greidiz $1\frac{1}{5}$ alin í tíund. Sú önnur telr 2 álnir af

[11]) Svo sem Hra. Lindahl framber nú rett statútunnar tilskipan, sem hún kennir, til at skipta sundr tíund, hvör bædi er sanngiarnleg og viturleg í því, at leggia beinasta veg til, at einginn afdráttr geti sked á hvoriga sídunna; þá undrar mig at hann hleypr á adrar meiníngar, og setr sídan 3 máta; því at þessi máti se sú retta atferd til at reikna út alla tiúnd, sýnir Arna Biskups stadfesti Christinrettr, sem bætir þessu vid: A hann meira fe edr minna í landi edr lausum eyri, þá giöriz þar tíund af eptir fiármagni, med slíkri grein sem her segir, Kap. 14da. Þá atferd, sem Hr. Lindahl setr í midit, þecki eg fyrir þá rettu; hina fyrstu þecki eg ecki fyrir lög, jafnvel þó margt se henni til gyldis talit af einhverium; og afdráttarlausi verdr aldregi tíund tekin eptir þeim, því þar gefz eingin Kóngleg mynt edr vörur, sem svo verdi skipt sem fyrstu atferdinni tilhlýdir. Hafi nagli, edr sú peningamynt, til verit í Gissurar tíd, þá hefir hann þó eigi til verit á fiórum næzt fyrirfarandi öldum, því sídr brúkadr í tíundar-greidsln.

[12]) Her á at vera, eptir at tíundin er 5 hdr, því á 5 hdr byriaz skipti-tíund, en ecki á því 6ta.

af 1ta hundradi af hverium 5, og eina alin af hveriu hundradi af hinum ødrum; til dæmis af 6 ℔ 8 álnir, af 7 ℔ 9 álnir, af 8 ℔ 10 ál., af 9 ℔ 11 ál., af 10 ℔ 12 álnir [13]). Pridia atferdin telr ecki 2 álnir, nema af því allra fyrsta hundradi, og svo eina alin af hveriu hinna þar eptir, til dæmis, af 6 ℔ 7 álnir, af 7 ℔ 8 álnir, af 8 ℔ 9 álnir, af 9 ℔ 10 álnir, af 10 ℔ 11 álnir [14]); af øllu þessu er fyrsta atferdin, sem mest vidgengz [15]). Reglimentit af 17da Júlii 1782 býdr, at 1 ℔ skuli vera hér, þat sem gengr í kaupum og sølum á 4 rdl., svo sem 2 hestar, edr 3 kaplar 4ra ára; hver sú kýr, sem leiga svaraz eptir, þó svo at hver 7da kýrin, hvar þær eru svo margar, felle úr; ell naut og géldar kvígur, af 3ia hundrada virdi, í 1 ℔; eins 6 ær, 8ta saudir 3ia edr 4ra vetra, 10 tvævetrir, 18 vetr-gamlir, og hverr bátr edr skip, sem gengr til siáfar. Þar sem lódir eda þorska-net eru brúkut, tíundaz þat (hvert fyrir sig) sem hálft skip, þat er at segia svo

[13]) Þessa atferd kendu Biskuparnir Gissur og Arni, hún er og løg, en eingin ønnur.

[14]) Þessi atferd er einber løgleysa, óverdug at standa í þessum góda ritlingi.

[15]) Eg veit hvergi þá atferd tídkaz; en hitt veit eg, at hvergi getr hún framfarit án afdráttar á adra hveria síduna, og þeir sem hana brúka, giøra þat annathvort af ásælni, edr servitskn.

svo mikit þar af, sem fylgir einu skipi. Af peníngum, sem geymaz ardlausir, 40 rdl. Specie í 1 hdr. og 20 rdl. Specie í $\frac{1}{2}$ hdr.[16]), en minni peníngar tíundaz ecki. Þeßa hluti upptelr nú Reglimentit, en hægt er at siá af høfud-reglunni *), at fleira fé verdr at tíunda enn þetta; til dæmis: peníngar á rentu eigu eigi at sídr at tíundaz enn hinir ardlausu, eigi sídr búshlutir enn fénadr, og adrir aurar, þó svo at þriggia hundrada virdi tíundiz í 1 hdr. eptir alþíngis samþycktinni árit 1574. Svo tíundaz og fasteignir eptir þeirra dýrleika, eins og þær eru ritadar á jarda-bókunum, edr og eptir landskuldinni; á þann hátt, at tíundin verdr $\frac{1}{10}$ partr landskuldar, og eptir þeßari sídst tiádu atferd tíundaz Kóngs-jardirnar í Gullbríngu-sýslu og Mosfells-sveit [17]).

Ein alin í tíund greidiz med 2 fiskum, og 1 fiskr til sveita eru $2\frac{1}{4}$ ß., en vid siáfarsídu helm-

[16]) Sídan Reglimentit var útgefit, hafa tídirnar svo umbreytt verdlagi á kvikpeníngi, at þat nær hvergi heim; til dæmis: nú gildir 1 kapall 10 a 12 rdl.; púls-hestr 8 a 10 rdl. og svo framvegis; þó treysti eg mer eigi til at svo støddu, at frambera þat sem betra væri, enn ádrsøgd Kóngsins løg; samt virdiz svo áhorfa, at eigi muni þeßi verda lánggæd.

*) Her meinaz án efa Gissurar Statúta.

[17]) Þat er hvergi annarstadar, at þeßi tíundar máti er brúkadr, þat eg tilveit, at tíunda jardir eptir landskuldar upphæd.

helmíngr af henni eptir forna taxtanum af 1702, og helmíngurinn eptir nýa Taxta af 1776, sem verdr $3\frac{9}{32}$ ß.; svo býdr Reglimentit af 1782. Gildir því alin hver í tíund til sveita $4\frac{1}{2}$ ß., og vid sió-sídu $6\frac{9}{16}$ ß.; hér eptir er tíundin af einni kú almennilega, edr ødrum aurum, sem metaz í 1 ℔ til sveita, $5\frac{2}{7}$ ß., og vid siáfar-sídu $7\frac{7}{8}$ ß. Af Kóngsins fiski-jørdum var Kóngs hlutr af tíundinni eptir Resolutioninni af 29da Júlii 1779 svo áqvardadr, at vætt af fiski skyldi gilda 1 rdl. 57 ß.; verdr þá 1 fiskr $3\frac{13}{40}$ ß.; nú er tiltekit, at hún á alleina at lúkaz í fiski, eptir Resolutioninni af 13da Júnii 1787.

Atferdin, sem tiltekr hvat og hvernig sérhvørr á at tíunda, er fylgiandi: at hreppstiórar halda á hausti hveriu þing, þá rita þeir upp hvat hverr madr á til tíundar, en eiganda byriar at telia fram, og æsti hreppstiórar þess, þá er hann skyldr at vinna eid um framtølu sína. A þeßu þingi greidiz fátækra-tíund, en Kóngs-, Kirkiu- og Presta-tíundir greidaz 5ta dag viku, þá 4ar vikur eru lidnar frá sumardeginum fyrsta, sér er fimtidagrinn milli þeß 19da og 25ta Aprilis [18]); siá ádr áminstaun Arna Biskups Christiunrétt, frá 1275, sem er stadfestr 1316, 15da og 16 Kap. í hønum.



[18]) Edliligt er, at Kóngs-tíund greidiz á manntals þingum, hvørt þau eru haldin fyrr edr sídar; eg hefi og vitat suma Presta samandraga þar sína og kirkiu-tíund.

Undan þeßari tíundar-skyldu skiliaz nockrir menn og fé, nefniliga Stiptamtmadrinn, Biskupar og Amtmenn, sem skyldaz eigi at tíunda þat fé, sem er á bólstad þeirra; í þeß stad géfa þeir fátækum eptir gedþeckni sinni, og eins til kirkna og klerka (pia corpora), og mißir einginn þeßara síns í fyrir þat; Prestar skyldaz eigi heldr til at lúka tiund, nema til fátækra, siá Reglimentit af 1782; at síduſtu, auk geiſtligra, þá skyldaz eigi verslegir embættis-menn til at svara tiund, þvi Kóngligr úrskurdr af 7da Mart. 1774 segir svo fyrir; tiundar-frí eru og svo nefnd pia corpora, sem eru Kirkiur, Stólar, Hospitöl, þau tiunda eigi kúgildi sín edr annat inventarium, sem þau eiga, eptir Reglimentinu af 1782. Tiundar-statútan fráskilr og hversdags-klædnad, presta bækur og meßuskrúda, edr sem þeir brúka til Guds-þiónuſtu; eins eru og bús-afleifar á vor, matr og hey, nema þætt sé búskap.

At sennu hafa hinir og þeßir af umbods-mönnum haft þá kreddu, at Kóngs fasteign skyldi eigi tiundaz, en ecki alleina sýnir Forordningin af 21ta Martii 1575, þat sem gagnstædt er, sem einasta fráskilr klaustrin og þeirra qvikfé, heldr og Resolutionin af 22 Martii 1784. Í henni bydr Kóngr vorr, at kirkinn, prestum og fátækum skuli tiund lúkaz af siálfs hans fasteignum í Gullbringu-sýslu og Mosfells-sveit. At þat sé eigandinn, sem lúka á jardar-tiund af

fasteign

fasteign sinni, er audséd af Forordníngunni af 21 Aprilis 1619 og Statútunni; hvar fyrir sidr sá, sem sumstadar vidgeingr, at leigulidi skal tíunda ábýli sitt, má eigi løglegr heita, med ødru móti enn svo, at eigandi tiái hønum jøfnud þar fyrir [19]). Tíund er rétt tæk hiá þeim sem eigi lúsir greida, og þarf eigi at hafa dóm fyrir, þegar Sýslumadr skipar; svo segir Reglimentit frá 1782.

## 8.

Skattr; hann er sem Jóns-bók segir í Kóngs-þegnskyldu 1ta Kap. 20 álnir, sem greidaz eiga, eptir R. bót Hákonar Kóngs, í vadmálum, skinnaveru, ull, og uxa-húdum, edr og 2 fiskar í hveria alin, hún hefir verit talin 4 ß. Specie. Líka er rétt, og heitir þat jafnvægi vid skatt almennilega, at greida 90 ß. Courant; þetta var og í Taxtanum af 1702 virdi einnrar vættar af íslendskum varníngi, svo sem vætt af fiski; þar af er þat, at í skattinn vid siáfarsídu er tekin og talin



[19]) Þat er eigi sumstadar, heldr almennt, at leigulidar tíunda ábýli sín, ef þau eru eigi tíundarfrí, líka er þat eldgamalt; hafa landsdrottnar sér til forsvars her um, at landskyldir seu nú þeim mun minni enn til forna, þegar 2 aurar gulduz í landskyld af hveriu hundradi; hefdin er líka á þeirra sídu, og hún meir enn 100, ef eigi 200 ára.

talin 1 vætt af fiski [20]). Af Kóngs fiski-jørdum er þann nú goldinn í eintómri skreid, eptir Resolution af 13da Júnii 1787; ádr var vættin, í Resolutioninni af 29da Júlii 1779, sett á 1 rdl. 57 ß.

Þeir sem skatt eigu at gialda, eptir áviísun Kóngs þegnskyldu, ásamt ymislegum yfirvalldanna úrskurdum, eru þeir, sem tíunda svo mørg hundrud lausa-fiár, sem fólk er margt á heimili þeirra; þar telr bóndi siálfann sig med, og eigi þá eitt ℔ fram yfir [21]); eins serhvørr búlaus madr,

[20]) Ovída mun nú fiskr goldinn í skatt, utan ef er í Snæfellsnesß-sýslu.

[21]) Hvergi se eg skadlega villu í skrifi þeßu enn góda, nema þeßa um heimilis-fólks fioldann; því hún villir hverutveggi; laganna ord, þegnskyldu 1ta Kap., eru þeßi: „at hverr sá bóndi er skyldr at gialda skatt og þingfarar kaup, er hann á fyri siálfann sig og hvørt skuldahión sitt, kú edr kúgilldi, skip edr nót, og skal hann eiga umfram eik, uxa edr hroß, og alla bús búhluti, sem þat bú má eigi þarfnaz. En skyldu-hiú hans eru þeir menn allir, sem hann á at skyldu fram at færa, og þeir verkmenn, sem þar þurfa at skyldu fyrir at vinna." Her af leidir fyrst: at órett se at telia allt þat fólk, sem vera kann á heimili, því margir safna því fólki at ser, sem þeim ber eingin skylda til edr naudsyn. Skuldahión eru þá einasta þeir menn, sem bóndi getr eigi frá komiz at framfæra; þat er hann, konan, skyldu ómagarnir, og þat fólk, sem vinna verdr fyrir því

madr, er hann á 10 ℞ skuldlaus. Þegar annathvort hióna fráfellr, hvort þat er madrinn edr konan, og hvort sem þat er fadir og dóttir, eda systkin, ellegar módir og sonr, ellegar adrir erfingiar, sem búa saman; þá skal (segir Hák. K. Réttarb.) aldrei af því búi gialdaz nema einar 20 álnir, hvert sem búit er meira edr minna.

Andlegir og veraldlegir embættis-menn eru eptir Resolutioninni af 7da Martii 1774, skatt-fríir, svo og lögréttumenn þat ár, sem þeir sitia í lögréttu, eptir Justitz-kaßa Forordn. af 16da Novembr. 1764. Á nockrum stødum er sagd sú venia, at hverr sá bóndi, sem kominn er í skipti-tíund, þat er sá sem eigi svarar minni tíund enn eyrir, geldr skatt; en at venia þeßi megi eingin rétt regla heita, auglýsir Forordn. af 15da Maji 1705, sem segir: at Sýslumenn, er taka skattinn, skuli krefia hans eptir løgum og



búi, svo jørd og hennar hlunnindi notiz. Þetta er hit mezta, sem med sanngirni kann segiaz edr álitaz um hiúatøluna; í annan máta segia løgin ecki, at þat skuli vera hundrad fyrir hvørn mann, heldr telia þar ámedal nót og hroß, sem hvorigt er hundrads virdi. Þat er víst gott at fylgia almúga í því sem rett er, en at ríra Kóngs tekiur, á eigi þar vid; hvørr vill þá hafa Sýslur, þegar allt fer hnignandi um innteektina? útan Kóngr má þá siálfr launa Sýslumønnum. At einhverr Sýslumadr gefiz of-frekr í tekiunum, mun satt vera; enda eru og tíundar-prettir á hina síduna ofmargvíslegir, því midr!

eigi ødruvís. Þeir taka hann veniulega á mann-tals-þingum á vorin, utan þar sem hann er gold-inn í varníngi, sem þá má eigi greidaz [22]). Ann-ars er giald-dagi á skatti, eptir Réttarb. Hák. K. ádr menn rída til løgþingis *).

9.

Giaf-tollr; þat telz svo til, at hann hafi uppkomit hér um árit 1380, þat er fest árlig greidsla, sem almúginn sín ámilli skal hafa ordit samráda í, at allir, sem tíundudu, skyldu gialda Sýslumønnum og Prófestum, til at frelsaz frá ákløgun þeirra, í þeim málum sem gildtu eina mørk edr minna; hvat Sýslumanns Jóns Ar-nasonar

[22]) Sá varníngr mun vera fiskr, sem ritarinn her meinar; vid annat á þat eigi heima, nema ef bádum þykir annat yndælla.

*) Af því, sem stendr í Þegnskyldu 1 Kap.: Sá skal skatt giallda, sem búnad reisir, en eigi sá er búi bregdr; þá var þat, at allvída var heimtadr búreisu-skattr af óríkum sem ríkum, er fyrst reistu búnad. Hra. Stiptamtmadr Thodal tók strax fyrir sig at aftaka þessa ónáttúrlegu álogu, og at sídustu feck þarum Konúnglegan úrskurd af 14 Martii 1774. Ord hans eru þessi: Endilega er þat vor allranádugasti vilie, at af því sá búreisu-skattr, sem sumstadar á Íslandi er heimtr af fátæku nýgiptu fólki, uppgøtvaz at vera ámóti løgum, þá má einginn Sýslumadr her eptir dirfaz at taka hann.

nasonar Réttargángr sýnir 49 bladsídu; um Knúts Steinssonar eyrindi til Islands er Forordníng af 16da Aprilis 1556; þetta var eptir þau nýu sidaskipti; þar í er sú helstin af giaf-tollum, sem ádr galdz Prófestum, løgd til Kóngsins sehirzlu, svo allr giaf-tollurinn er nú ámedal þeirra tekia, sem Sýslumenn hafa og svára fyrir. Hann tekz eigi med einu móti í øllum Sýslum; og kémr þat af því, at engin Kónglig Forordníng hefir áqvardat hann; Rescript edr Konúnglegt andsvar finnz um hann frá 20ta Aprilis 1619, at Sýslumenn, sem giaf-tollinn taka, og manntals-fisk, skuli eigi heimta meira af bændum, enn þat, er þeim med réttu ber, og vera á.

Þat er þó vidtekin venia í øllum hérødum, at giaf-tollr eykz eptir tíund, þó alleina af lausafé, eptir alþíngis-dómum af 1600 og 1679.

I Gullbríngu-sýslu gialdaz 10 fiskar í þennann giaf-toll af einu hundradi til 9 hdr., af 10 hdr. til 19 hdr. 12 fiskar, og 20 fiskar af 20 hdr. og þar yfir, hversu stór sem tíund verdr. I nockrum hérødum skal hann vera goldinn med einum fiski af hveriu hundradi, til þéss tíundin er 5 hdr.; 10 fiskar af 6 til 19 hundrada, og 20 fiskar af 20 hdr. edr þar yfir; aptr annarstadar 15 fiskar frá 11 til 20 hdr.; enn almennt er, at af 10 aurum eda 60 ál. geldz 1 fiskr, af 1 hdr. 2 fiskar, af 2 hdr. 3 fiskar, af 3 hdr. 4 f., af 4 hdr. 5 fiskar, af 5 hdr. til 9 hundrada 10 f.,

af 10 hdr. til 19 hdr. 12 fiskar, af 20 hdr. og þar yfir 20 fiskar [23]), sem er bygt á 2 alþingis samþycktum frá 1680 og 1686.

Þat er ein sérlig atferd í Gullbríngu-sýslu, at sá er einúngis á 1 bát edr kú, þá skuli hann lúka 10 fiska, eins og hinn sem á níufaldt. Jón Arnason (í sínum Réttargángi) heldr at sönnu, at þeßi sérligi reikníngr sé bygdr á einum Kónglegum úrskurdi frá 1702, sem Lögmadr Gottrup gat þar um feingit, og kunngiörr var frá Rentukammerinu hann 6ta Maji 1702. Innihald hennar er þar um, at giaftolla-takan, sem hann hafdi kunngiört um, skyldi sídar nákvæmar rannsakaz af einni Kommißion edr tilskipadri nefnd, og þar eptir skyldi áqvardaz hvat rétt væri um giaftolla-tekiu.

Hverr fiskr í giaf-toll reiknaz í peníngum eins og í skatt; greidiz og í sama mund þeßi sem hinar tekiurnar. Ef hann er goldinn í varníngi edr vörum, þá eiga þær at vera gódar og útgeingiligar eptir Kóngs-brefinu af 20ta Aprilis 1619 [24]). Andlegir og veraldlegir embættismenn greida eigi giaf-toll, eptir Resolution af

7da

[23]) Svo hefir hann verit veniuligast goldinn í Bardástrandar-sýslu.

[24]) Þeßi heila saga um giaf-toll er, því midr! rett framborin af Hra. Lindahl; þat er stór þörf, at Kóngr vor gæfi út bref, sem áqvardadi þeßa tekiu, því þat er bædi aumt og illt, at fara med tekiur, sem liggia í lögleysu.

7da Martii 1774, eigi heldr lögréttumenn þat ár, er þeir sitia í lögréttu, eptir Forordníngu frá 16da November 1764.

## 10.

**Manntals-fiskar**; þat eru nockrir tilteknir fiskar, sem greidaz af utanhérads útródrà mennum í Gullbríngu- og Snæfells-sýslum; þeßi útlát eru býgd á vana svo gömlum, at menn meina hann hafi uppkomit á 16du öld; um þeirra uppruna er annars at lesa Sýslumanns Magnúsar Kétilssonar athugasemd í þridia bindini af þeim íslendsku Forordníngum á 92 og 93 bladsídu. Í Snæfells-sýslu eru þat 2 fiskar af sérhverium, sem fá 30 fiska hlut, og þar yfir; í fyrstunni var manntals-fiskr hinn sami í Gullbríngu-sýslu, bygdr á gömlum dómi frá 1590; en sídan er hann ordinn þar 3 fiskar, og þannig greidiz hann þar nú; eptir alþíngis-dómi frá 1643 og 1713 eigaz manntals-fiskar at greidaz þar eins og vanalegt hefir verit. Hvat vidvíkr Snæfellsneß-sýslu, þá er til einn Kóngligr úrskurdr frá 9da Aprilis 1781, sem býdr, at þar greidiz 2 manntals-fiskar í þeim varníngi, sem vanalegt hafi verit. Tiltekit er í bádum þeßum Sýslum, at verslígra Embættis-manna, Presta, Eckna, og Lögréttumanna þiónar skuli eigi þennann toll lúka, eptir alþíngis-dómi frá 1654, og ádr tédum úrskurdi frá 9da Aprilis 1781.

Bændr,

Bændr', sem halda utanhéraðs Ródrarmenn, draga saman manntals-fiska af þeirra hásetum, og lúka þá síðan Sýslumanni, eptir at fiskurinn er þurr orðinn. Sérhverr manntals-fiskr var, eptir Kónglegri Resolution af 29da Júlii 1779, reiknaðr sama sem 1 fiskr í skatt og landskuldar-giald, nefniliga $3\frac{3}{20}$ ß., eðr vættin á 1 rdl. 57 ß. Courant; en nú á honum at svaraz í eintómis fiski, eptir seinni Resolution af 13da Júnii 1787.

II.

Tugthúss-tollr; þat eru 2 ß. Courant af hverium 30 álnum eðr 48 fiskum í landskuld, líka $1\frac{1}{2}$ ß. af hverri kúgildis-leigu, sem greidiz á öllu landi; þessi greidsla liggr á eiganda, þó svarar leiguliði henni, hvat lands-drottinn borgar honum síðar. Þessi tollr er álagðr með Kóngl. Forordning af 20ta Martii 1759, þegar tugthúsit var stiptat, og heimtiz á vorin til tugthússkassans af Sýslumönnum á manntals-þingum, at öllu eptir þeim þings-vitnum, sem þeir árlega taka um landskulda og kúgilda-leigna upphædina. Kóngrinn siálfr svarar líka þessum tugthúss-tolli af sinum fasteignum og kúgildum. Samt hefir sú ó-regla innsmeygt sér, at tugthúss-tollar lúkaz eigi allstaðar fyrir yfirstandanda árit. Í vestra parti Skaptafells-, Rángárvalla-, Árness-, Kiósar-, Mýra-, Snæfellsness- og Dala-sýslum lúkaz þeir fyrir umliðit ár; en í nyrðri og syðri Múla-

Múla-sýslu, eystri Skaptafells-, Vestmanna-eya-, Gullbringu-, Hnappadals-, Bardastrandar-, Isafiardar-, Stranda-, Húnavatns-, Skagafiardar-, Eyiafiardar- og Þíngeyar-sýslu líkaz þeir sama ár; þó er eigi olldúngis efalaust um Isafiardar-sýslu, hvørt þeir lúkiz þar fyrir sama ár, edr árit fyrir.

## 12.

Fátækra framfæri; þetta er ein sú þyngsta byrdi, sem á búanda fólki liggr; sérhverr hreppr edr sókn á at framfæra sína þurfa-menn; en þat er gamalt þrætu-efni, hvar sá eda sá þurfamadr eigi framfæri, hvørt heldr í einum edr ødrum hrepp; og kemr þat af því, at þar verda lángtum fleiri tilfelli þeßu vidvíkiandi, enn þau sem finnaz í Jóns-bókinni; einn heill ritlingr er til um þat í þeß Kóngl. Islendska Lærdóms-Lista Félags ritum, 4da bindini fyrir árit 1783, frá 112 til 136ta bladsídu.

Laganna áqvardan í Framfærslu-bálks 9da Kap. er þeßi: "En þeir eru þar hreppsmenn, sem þar hafa uppfædz, edr þar sem erfíngi hans er vistfastr, þrimenníngr eda nánari, og hefir þar vissa biargrædis útvegi" [25]). Grundvøllurinn til sveitar-tilkalls, edr

[25]) Og hefir þar vißa biargrædis útvegi, þau ord, edr þeirrar meiningar, standa ecki í Logbókinni.

edr rèttr til framfæris á hrepp, er haldinn at sè sá, at þurfamadrinn edr hans foreldrar og ættíngiar hafi verit hreppnum til gagns, edr og fyrir hiónaband og búnad ordit þar hreppsmadr; fyrir því fylgia menn giarnan þeirri reglu í vafasemdar-efni um gammál-menni, at þar sem madrinn hefir lifat bezta part æfi sinnar, edr inngengit hiúskap og búit, þar egi hann ómagaframfæri [26]. Úr øllum þvílikum efamálum skèr hverr Sýslumadr í sinni sýslu stuttlega, eptir

[26]) Þótt þetta se víst sanngiarnlegt, þá þykiaz ecki allir þat skilia; fleira er líka, sem villuna giørir, enn þetta eina; hitt sem eptirkemr, at Sýslumenn skuli skera úr øllu þessu, og sídan Amtmadr, verdr þat optar enn skyldi oflángt úr því, vesælíngnum til skada og líftións, þvert ámóti Guds og Kóngsins vilia. Svo mikit er þó um þetta efni skráð til upplýsingar løgunum, at vitrir og gódgiarnir menn geta aktíd farit vel og rettilega med þurfamanninn, ef þeir mætti ráda; en svo sem af því bregdr optar enn skyldi, þá held eg fátt se þat, sem fremr naudsyniadi um Kóngl. Forordníng enn fátækra framfærit á Íslandi; og talat hefi eg vid einn hávitrann Herra her í Kaupmannahøfn, sem hefir látit ser um munn fara, at þvílíka Forordníng gæti hann samantekit, og hefir eg fundit þvílíka skynsemd í því tali hans, at því er midr, at þat eru eigi Kóngleg løg, sem hann medfer; þá veit eg og, at eigi allfáir á Íslandi mættu sitta hálsinn á þeirra gømlu kreddu, sem lengi hefir giort mestu vitsku og gódgirni at heimsku, og útrænt margann vitrann og gódgiarnann at líkams og sálar kroptum.

eptir Kónglegu brefi af 11ta April 1781 appellslaust. Med því eru vid þvilikum þrætum rammar skordur reistar. En greini tvo hérød á um þvílikt, plaga menn at sækia Amtmanns úrskurd þarum.

Framfærit skédr á þann hátt, at hreppstiórar med rádi Prestsins nidrsetia árlega hiá hverium búanda; sérhverr þurfamadr skal taka framfæri sitt, fædi og klædi, tiltekna tíd í nidrsetu; vinnr hann þó húsbóndanum þat hann megnar, eins og hiú hans væri. A stundum er þurfa-madr nidursettr hiá fleirum enn einum, og þat um vißann tíma hiá hverium; en stundum framfærtz hann hiá einum manni, en honum bitala hreppstiórar af fátækra kaßanum; því hinir adrir bændur í hreppnum leggia á hveriu hausti í þenna fátækra kaßa, peninga eda matvørur (þeßi matr var í þeirri Katólsku tíd, sá sem fólk dró af sér á þeim døgum er þat fastadi); øllu þeßu er niðurradat eptir ástandi manna, edr eptir eins og sérhvers meiri edr minni efuum, hvar um hreppstiórar dæma, og grundvalla sinn dóm á tíunda-reikníngínum um fiármeguit og fólksfieldann. Þetta sýnir Framf. B. 12ti Kap. Réttarb. H. K., og Forordníngin frá 3ia Júníi 1746, 11ta Art.

Hvat hreppstiórar álykta hér um, verdr Sýslumadr at leggia dóms-atqvædi á, þá naudsýn krefr, eptir Kóngs-brefinu frá 11ta Aprilis 1781. Af fátækra-kaßanum, í hvern þeir

bændr

bændr leggia, sem eingann ómaga ala, ásamt því sem Kóngrinn tilleggr fátækum í stadinn þeß, sem kaupþeondlunin gaf til forna í sérhverri sýßu til árlegrar úthlutunar; hvar ámóti þeir, sem nú kaupþendla greida ecki til fátækra af þeirra lausafé, medan þat stendr; og at sídustu af þeim hluta tíundarinnar, sem fátækum tilfellr; af þeßu, sem nú er sagt, sá þeir nú borgun, sem halda ómaga, edr þurfamenn, fremr enn þeim byriar.

Ómagi sá, sem á ádrtédann hátt er uppalinn edr uppfóstradr á sveitarmanna kostnad, má eigi vísta sig utan-sveitar, medan honum býdz forsvaranlig vist í hreppnum; þat sýnir alþingis-dómr frá 1684 og Forordníngin frá 3ia Júníi 1746, 11 Art. [27]).

Allt annat er þat ómaga framfæri, edr skylda sú, sem Jónsb. talar um í 1 og 2 Kap. Framf. B., sem þar í er fólgin, at sérhverr, sem svo er efnadr, framfæri naudstadda og biargþrota ættíngia sína, medan aumíngiinn á einn edr fleiri þvílíka ættíngia, sem géta veitt honum framfæri; svo hann verdi eigi sveitinni til þýngsla, R. b. Hák. K.: Frændsemi sú, er þeßi skylda liggr

[27]) Eptir skipan Stiptamtmanns af 26ta Decemb. 1785, skulu hreppstiórar hafa gegnumdreginn prótókol, löggiltan af Sýslumanni, og þar í skrifa alla inntekt og útgipt til fátækra, samt þeirra tál, og hve mikit hverium ómaga leggz, med fleiru þar at lútanda.

liggr á, nær til fiórmenníngs, og laganna regla telr svo til, á hvern hátt at efnadir frændr skuli framfæra, auk siálfra þeirra eigin barna, fødr og módur, og systkin; þá koma þeir, sem hverr á at erfa fyrr enn adrir; Framf. B. 1ta Kap. Eigi hann ecki til framfæris beggia foreldranna, þá framfærir hann fyrr módur enn fødr; fadirinn uppfædir fridlubarn at tveimr þridiúngum, en módirin at einum þridiúngi; Réttarb. E. K. Framf. b. 1ti Kap. leggr nidr, hve mikit fé sá skal eiga, sem á at framfæra biargþrota frændr sína, á þennann hátt: Systkin sitt, þegar hann á eins árs edr 2 mißira biørg; þann sem er firnari at ætt, allt at þrímenníngi, framfærir hann, ef hann á 2ia ára (4ra mißira) biørg; þann sem er í þridia og fiórda lid, ef hann á 3ia ára (6 mißira) biørg; en fiórmenníng, ef hann á fiøgra ára biørg. Biørg þeßi á at vera svo mikil, at fyrir sérhvern, sem er á heimilinu, og hann hefir ádr tekit til forsorgunar, og enn þá tekr, er ætlat karlmanni $3\frac{1}{2}$ [symbol] og qvennmanni $2\frac{1}{2}$ [symbol] árlángt; húsgøgn, verkfæri, ein ígángs-klædi virdaz ecki; ef nockr þeßara er hverr annars arfi, þá ætlaz þeim 2ia ára biørg [28]). En med því

siáldan

[28]) Um þeßa frænda framfærslu hefir gengit miøg ósanngiarnlega á Islandi; þat er eigi lángt sídan einhverr var dæmdr, at framfæra ómaga, og sá dómr var stadfestr í løgrettu, jafnvel þó allir vißu at hann átti einga fémuni, nema lítinn jardar-

ſialdan finnaz ſvo margir fémunir hiá bændum, ſem hér til nægi, og þat því ſídr, ef þeir fémunir ſkulu leggiaz í hundrad, ſem þeir lögduz árit 1280, þegar Jónsbókin kom út, ſem þó á ſvo at vera, enn eigi einúngis þat ſem á þeßum tídum gildir 4 rdl.; þá ríðkaz þat nú eigi, at þurfamadr ſé ſettr á einn af frændum, heldr leggia náúngar ſaman til at framfæra hann.

Sýſlumenn, ſem nú hafa feingit þat vald í hendur, eptir Reſcr. af 11ta Aprilis 1781, at nidurrada ómögum medal frænda án lagaſóknar, hegda ſér í því efni eptir ſanngirni, atgætandi áſtand manna, hvert einn er efnadr at leggia þurfamanni, edr framfæra hann án ſaknadar.

Tillöguna, hve ſtór hún ſkal vera, áqvarda Sýſlumennirnir; en ef framfærit á at ſamandragaz frá fleirum Sýſlum enn einni, og Sýſlumönnum kémr eigi ſaman um, hve mikit úr hverri Sýſlu ſkuli leggiaz, þar á ſú nidurradan at ſké af Amtmanni [29].



part; ſem var hans einaſta athvarf; hann vard þá at ſelia hann til at hlýda dóminum. Þat er því eitt af þeim gódu og ódaudlegu verkum, ſem Hra. Stiptamtm. Thodal giördi í Íslandi, at her um er komin betri regla fyrir Reſcr. af 11ta April 1781.

[29]) Allt þetta þykir mer verda of-lángſamt, nema því at eins, at hreppsmenn endiliga ſkyldu halda ómagann, þar til þeßi rádſtöfun er fullgiörd at öllu.

## 13.

Løgmanns-tollr; hann er af hverri jørd 2 fiskar edr 4 ß. í Specie, og 1 fiskr af hverium manni, sem tíundar 1 ℔ lausafiár edr fremr; eins af þeim sem búa á hálfri jørdu, og hinum sem eru hiáleigu- edr húsmenn, ef þeir hafa grasnyt fyrir eina kú eda fleiri. Allir þeßir greida 1 fisk edr 2 ß. (Species) fyrir jardnædit. Løgmanns-tollr er skipadr med Kónglegri Förordníng af 7da Aprilis 1688, at hann skal árlega greidaz til sérhvers Løgmanns í hans løgdæmi. Þennann toll taka Sýslumenn á manntals-þíngum eptir Resciptinu af 14da Aprilis 1759, og nióta af honum fyrir ómak sitt siøtta partsins; til forna feingu þeir fiórda partinn.

## 14.

Dýra-tollr eda Refa-tollr; eru árlig útlát, sem bændr í hverri sókn leggia saman í eitt á fylgiandi hátt: sá sem á saudfé, skal gefa á vorin, til þeß at tófur séu drepnar, svo bitr giøri eigi ofmikit tión. Snemma á vorin segia hreppstiórar hreppsmønnum til at safnaz og leita eptir grenium, og þá gren er fundit, kémr þángat skyti edr skotmadr þeß hérads, og vakir þar, uns hann hefir nád bádum hernlægiunum og drepit hvolpana; fyrir þetta greidiz honum vanalega 4 mk. í Crónu, og stundum, ef hann er úr annari sókn, fær hann 1 rdl. fyrir hvert gren,

 sem

sem hann eydileggr, auk matar, medann hann liggr á greninu; nái skyttan ecki nema annari grenlægiunni, edlaz hann helmínginn, med því hann fécк ecki til fulls unnit grenit. Eptir því hve mørg gren eru unnin, eru verdlaunin jøfnud af hreppstiórum á sveitarmenn, svo sem hverr er sauð-bóndi til; þannig er nú sídvaninn [30].

Annars er til alþíngis-dómr frá 1680 um dýra-tollinn, svo hliódandi: "At hverr sá bóndi, sem hefir 6 sauð-kyndur í eigu edr vardveitslu, hann skal veida á ári hveriu 2 únga refa, edr eina gamal-tófu, ella greidi 3 álnir í mat fyrir fardaga; og sá sem eigi hefir lokit því føstudaginn í fardøgum, skal greida 4 álnir at auki, sem hreppstiórar skulu heimta og vidtøku veita, hvortveggia sem vitaskuld; og ødlaz sækiandi hálfa sektina (eda 2 ál.); sama skal vera um búlaust fólk, sem á slíka fiártølu, er ádr er sagt. Refatollr leggz fyrir refa-veidi, nema hreppstiórum virdiz meiri naudsyn á, at fátækir nióti hans; annars skulu Sýslumenn tilhlýdiliga áfhýsa-almúgan

[30]) Litit bragd hefir verit at um refa-toll í Bardastrandar-sýslu, og hvergi árlega goldiz, og svo hygg eg þat se vídar vestanlands. Aldregi er þar skyttum bodit minna enn 2 rdl. fyrir heila grenit, edr minnst 2 Crónur; en bezta sauð úr se segia menn sá eigi, sem nær bítnum, og minna má þat eigi vera, svo sem refskinnit er ónýtt á vorin; líka vill og fardar-ábúandi eigá þat, en optlega er þat giørt fyrir ecki.

múgann at leita eptir grenium án forsómunar, og at bitala tófu = saungurum sanngiarnlega sína fyrirhøfn." Til er og einn úrskurdr frá Stipt= amtmanninum á Islandi frá 6ta Maji 1777, er segir: "At sá sem med røkum sýnir, at hann á sínu eignar= edr leigulandi hafi drepit 2 full= ordnar tófur edr fleiri, sá sami skuli eigi dýra= toll gialda þat ár; en ef hann þar at auk hefir drepit nockrar á annara manna landi edr jørdu, þá skal hann ná hlut úr dýra=tollinum, sem tala rennr til; samt at sérhverr skuli vita hverninn dýra=tolli er úthlutat, og líka hvat honum ber í hánn at lúka; annars sé hann stefndr í þíngbods= sedli til manntals=þíngs." Ef dýra-tollr greidiz eigi gódviliuglega, má hann takaz med adför, eptir álýktan Sýslumanns, hveria álýktan eigi má framar ákæra, eptir Kóngs=brefi frá 11ta April 1781.

## 15.

Hospítals=hlutr; þat er einn hlutr, sem í hverium lands-fiórdúngi greidiz til Hospítalsins í þeim fiórdúngi af fisk=afla þeim, sem fæz á hveriu skipi edr bát, á tilteknum degi á ári hveriu, og má eigi vera minna í hlut enn 5 fisk= ar; þessi útlát eru í Hospítals=forordníngunni frá 27da Maji 1746 þannig befalud: "Hverr madr, er fer med skip á siò, skal einu sinni á ári skipta Hospítalinu einum hlut af ellu því fiski= fángi, hveriu nafni sem heitir, sem Gud gefr

þeim; dagarnir, á hverium Hospítalinu tilheyrir einn fiska-hlutr, eru eptirfylgiandi: frá Lánga-nesi til Austr-horns, fyrsti rúmhelgr dagr eptir Jóns-meßu; frá Austr-horni til Búlandshöfda bædi á landi og í Vestmanna-eyium, fyrsti rúm-helgr dagr eptir Páska; frá Búlandshöfda allt ikríngum Vestr-landit til Hrútafiardar-ár, næzti rúmhelgr dagr eptir Kroß-meßu á vor; frá Hrútafiardar-á til Lánga-neß umkríng allt Nordrland, næzti rúmhelgr dagr eptir Vitus-meßu; en hindriz fólk at sækia sió um ádrtéda daga, edr svo litit fiskaz, at ecki séu 5 fiskar í hvern hlut, þá skal Hospítalinu gefa hlut næzta dag þar eptir, þá 5 fiskar eru í hlut edr meira."

Hospitals-hlut á strax at afhenda, þegar á land er komit, til þeß manns, sem hefir þann starfa af Sýslumanni at verka hann og þurka; fær sá madr þar fyrir höfudin, hnacka og raskit eda slógit. Hreppstiórnm er bodit í hverium hrepp at géfa Sýslumanni til kynna, hve mörg skip sækia sió þar í sveit, svo hann viti tölu þeirra, sem gánga til fiskiar. Auk fiskihlutar er Hospí-talinu tillagdr fugl, sem veidiz á einum áqved-num degi vid Drángey edr á ödrum stödum, hvar slík veidi ídkaz, at fráteknum Vestmanneyium, hvar Hospítals-hlutr eins af fugli sem fiski er lagdr, í Kóngs-brefinu frá 20ta Febr. 1750, siúklingum og þurfamönnum þar á eyiunni.

## 16.

Lausamanns-tollr (lausa-kaup); þat eru útlát, sem árlega gialdaz Presti, 24 ß., og annat eins mikit til kirkiu, af sérhverium lausamanni, nefniliga af þeim, sem ecki er vistfastr, og fær sannat, at hann geti eigi vist feingit, og verdr at leingia lífit vid þeßa kosti, eptir Reglim. frá 17da Júlii 1782.

## 17.

Liós-tollr (lýsu-tollr) til kirkiu af þeim sem giöra tíund, eptir Arna Biskups Kristinrétti af 1275; hann er heill edr hálfr [31]. Sá svo kalladi heili liós-tollr greidiz allstadar med 4 ℔ af tólki, af þeim sem búfastir eru, og halda hiú, hvort sem þeir eru giptir edr úgiptir, eins eckiumenn sem eckiur. Í hálfann liós-toll lúka húsmenn 2 ℔ af tólki, allt eptir Reglim. frá 1782. Þegar tólk er eigi til at greida, þá lýkz verd þeß med peníngum, sem í Reglimentinu,

 sam-

[31]) Þat er eigi svo rett mællt, sem eg vilda, at nefna heilann og hálfann liós-toll, því Þorláks og Ketils Kristinrettr prentadi (siá pag. 162.) kallar lýsu toll 2 álnir vadmáls, 2 aura vags, en nefnir þat eigi hálfann liós-toll; en 4 álnir nefnir hann hióna-lióstoll edr tvöfalldann liós-toll; siá líka her um Arna Biskups Kristinnrett prentada, pag. 100., hvar liós-tollrinn er eigi hærri enn tveir aurar vags, og kallaz þó eigi hálfr liós-tollr.

ſamſtemmandi vid þá verandi kauphendlunar taxta, er faſtſett at ſkuli vera $6\frac{1}{2}$ ß. fyrir 1 ℔. af tólk. Med því lióſ-tollr geldz kirkiu til lýſíngar á tilkomanda vetri, þá flýtr þar af, at hann á at gialdaz á hauſtin.

## 18.

Sætis-fiſkr (kirkiu-fiſkr); þat er fiſkr, ſem nockrum kirkium, ſvo ſem Hvalsneß og Utſkála í Gullbríngu-ſýſlu, og Lóns-kirkiu í Snæfellsneß-ſýſlu, er goldinn af þeim, ſem ſækia ſió í þeßum kirkin-ſóknum. Til Hvalsneß og Utſkála-kirkna er ſætis-fiſkuriñn løgtekinn med Kóngsbrefi frá 1ta Decemb. 1752, þannig: at Preſtarnir í greindum ſóknum ſkulu taka nefndann fiſk af hverium framandi útródrar-manni, ſem fær 1 ✠ í hlut, hvert heldr þat er á milli þeß 4. Febr. og 12. Maji, edr frá 12. Maji og til þeß í midium Júlio; þar ámóti ſkulu preſtarnir býggia kirkiur ſínar ſvo ſtórar og rúmgódar, at þær at minſta koſti taki helmíng af þeim framandi; auk þeß, at allt ſóknarfólkit á at rúmaz í þeim. Enn med því Hvalsneß Preſtinum hverki til forna né nú liggr kirkiu-býggíng á hendi, þá tekr kirkian ſiálf ſætis-fiſkinn.

Þegar hann er ecki goldinn í fiſki, þá eru greiddir 4 ß. fyrir hveria vertíd, og 8 ß. fyrir bádar; og tekr bóndinn, ſem útródrar-mennirnir eru hiá, þennann fiſk í vertídar-lokum, og geldr hann ſídan til kirkiu, eptir Stiptamtmanns

úrſkurdi

úrskurdi frá 15da Decembr. 1780. Lóns-kirkiu fiskr er álagdr í einni svo nefndri Kirkiu-fúndatz frá 1563 af Høfuds-manni og Biskupi á þenna hátt: "Svo skulu og allir útródrar-menn í Dritvík og Lóni géfa til kirkiu vidurhalds einn fisk árlega hverr madr, og greida hann kirkiu-haldaranum; þverskallaz einhver þar ámóti, og greidir eigi þennann fisk árlega, þá skal umbods-madr Konúngs hafa vald til, fyrir kirkiunnar hønd, at taka hann af hlut þeß ins sama." Þeßi sætis-fiskr er at því leiti ólíkr hinum, at hann geldz bædi af innan- og utan-sveitar mønnum; og þat eins, hvert sem fisk-aflinn er litill edr mikill, og hér af mun þat koma, at ávallt hefir ørdugt geingit um greidslu á hønum; því 1678 vard at endrnýa hann med alþingis-dómi, og aptr med Løgmanns-dómi 1679. 1704 vard Sýslumadr þar at koma í leikinn, og 1720 mátti Stiptamtmadrinn herda at þeßu med nýrri skipan; eins lika Amtmadrinn 1763, og at sídustu kom úrskurdr frá Cancellienu af 13da Júníi 1778, og í hønum er hverr fiskr settr á $2\frac{1}{4}$ ß., og þar leysiz, at án dóms og laga megi hann heimtaz med atfør hiá þeim, sem þverskallaz.

## 19.

Offur til Presta á þremur stór-hátídum, Jólum, Páskum og Hvítasunnu. Eptir Reglimentinu frá 1782 koma þeßi útlát til bænda-fólks at offra, þó eigi utan til efnadra jardeig-

enda, at auk Forpagtara og Klaustr-haldara, sem sumir eda at nockru leiti eru bændur. Þat er eptir hvers eins gédþeckni, hve mikit edr lítit hann offri; en spurníng sú hefir sídan ordit heyrum-kunnig, hverir skyldu vera þeir jardeigendr, sem efnadir mættu kallaz, hvar um Stiptamtmadr og Biskup þann 7da Augusti 1787 feldu þann úrskurd: At sá sem ætti 20 hndr. í jørdu, og tíundadi meira enn 5 hndr. lausafiár, eda þó hann ætti eigi nema 10 hndr. í fasteign, og tíundadi 10 hndr. lausafiár, þá væri hann eptir sanngirni nógu efnadr til at géfa Presti offur; auk embættismanna er og kaupmønnum øllum og þeirra þiónum, sem taka full laun, en tíunda eckert, álagt at offra Prestum [32].

20.

Dagsverk; þat er 1 dags erfidi hiá prestinum á sumri; þat gialda lausamenn, bændr, og allir sem jardnædi hafa, og giøra minni enn eyris tíund (5 hndr.); því þá gialda þeir presti

eínga

[32]) 1790 þann 4da Júníi gaf Kóngr vorr bref út, og býdr svo: "Sýslumenn vorir þiónar og kaupmenn skulu í hvert sinn offra 4 mk., vorir jarda-forpagtarar 2 mk., og jardeigendur eda proprietærer 1 mk., og skiliaz med þeim þeir er eiga 20 hndr. í jørdu, edr og 10 hndr. í jørdu og tíunda 10 hndr. lausafiár; án dóms og laga skal offur samandragaz med atfør, frá þeim er þverskallaz."

einga tíund. Þeir sem eigi géta unnit dagsverkit af sér edr slegit dagsláttu, þá greida þeir þar fyrir 16 ß. eptir ádrtédu Reglimenti frá 1782.

## 21.

Hey-tollr (þínga-tollr) edr lambs-fódr er, at bændr og adrir, sem jardnædi hafa, taka 1 fódr-lamb af presti heilann vetr, edr greida eptir Reglim. frá 1782. 24 ß. Courant, edr adra gilda aura; sumstadar er og hey látit upp í tollinn.

Utsvar til prests og kirkiu má hiá þeim, sem þriótskaz, taka, eptir Sýslumanns tilstilli, án dóms; svo leyfir Reglimentit [33]).

22.

[33]) Þó eptirfylgiandi greinir beri eigi allar til á hveriu ári, þá eru þat þó fastar greidslur, sem hverium manni ættu kunnar at vera. 1. Legkaup; þat er 12 al., finnz í Kristinretti forna prentada, pag. 28.; þat gialda allir, sem tíund giøra; hinir líka sem eptirláta femuni, svo arfr verdi; adrir lúka ecki; fyrir barn tannlaust greidaz 6 álnir; Reglim. frá 1782 seggr þat á 54 ß. 2. Líksaungs-eyrir er 6 álnir, edr 27 ß. (12 fiskar). Reglimentit bætir enn nú vid auka embættis-verkum prestanna á þann hátt: 3. At kaupa med efnudum og ríkum hiónum greidiz fyrir 2 mk.; þeir midr efnudu lúka 24 ß.; hinir enu nú efna-minni 16 ß., þeir fátækustu 10 ß., og hit sama fyrir hióna-vígslu. 4. Fyrir barnaskýrn greida velfiádir menn 24 ß., medal-bændr 14 ß., fe-minni 10 ß., þeir fátækustu eckert

22.

Vegabætur; at auki þeß sem Jónsbókin í Landsl. B. 44. Kap. og Réttarb. E. K. hlióda um vidhald vega, þá er þar um gefit eitt Kóngsbréf, sem nógsamlega talar um vegabætur, frá 29da Aprilis 1776; þar er almúganum bodit at rydia vegu í bygdinni árlega, og stutta fiallvegu, helst þá sem eigi eru lengri enn þíngmanna-leid eda 5 milur á leingd. Gatan á at vera svo breid, at tveir klyfia-hestar géti geingit á víxl hverr fram hiá ødrum. Þar sem stórgrÿti þarf at spreingia í sundr, þá leggia hérads-menn kostnad saman til þeß at fá því til leidar komit; þó skal hann eigi stærri vera á ári enn 3 rdl. Til og frá bæium skal sérhverr eigandi edr ábúandi hafa forsvaranlegar tradir á bádar sídur yfir um túnit og hlodin; yfir litlum ám og lækium, hvar því má vidkoma, og plátsinu hagar svo, skulu vera brúr; og á stórum ám og elfum alméunings-ferjur; þar ámóti bitala ferdamenn ferju-tollinn, svo sem hann er áqvardadr af Amtmanni í því amti.

A

5. Fyrir at leida konur í kirkiu, greidiz hálfu minna enn skÿra barn. 6. At undirbúa børn til stadfestingar eda firmíngar greidiz fyrir, eptir fiáreign bænda; eins og sagt er um barnaskírn; og hvar þetta eigi greidiz í peníngum edr varníngi, þá lykz þat med vinnu hiá prestinum. Þó einhverr se svo fátækr, at eptir hann verdi eigi legkaup goldit, þá geldz samt líksaungs-eyririnn.

A laungu fiallvegunum eiga at vera verdr og vegamerki svo nálægt hvat ødru, at ferdamenn siái tvennt í einu; þar eiga og at vera sæluhús edr kofar, og í þeim á at liggia nodút af heyi og eldsneyti, sem úr nálægum bygdum er gefit þángat, svo ferdamenn fái hiálp þar af á vetrardag, þegar þeim áliggr; þó skulu þeir leggia þar nockra þóknun fyrir til þeirra, sem eru réttir medtøku-menn, eptir Amtmanns áqvædi; og eiga þeir þat, sem tillagit giørdu. Fyrir øllu þeßu á Sýslumadr at siá, at almúginn komi því til leidar, og þat med þvílíkri náqvæmd, at árlega leggiz eigi meira á fólk, enn þat gétr afkastat, án þeß at hindraz frá naudsynia-verkum sínum. Ef nockr tiáir sig óhlýdinn hér í, þá er hann fallinn í 2ia lóda sekt, sem fellr til vega-bóta; þar at auki géldr hann fyrir þat, sem ógiørt er, af því sem honum bar; og tekz þat allt med atför án lagasóknar. At sídustu byriar at hlýda því, sem Stiptamtmadr og Amtmenn fremr biöda og álíta naudsyn, hverr í sínu amti, vidvíkiandi vegum, brúm og ferium, hvort heldr þat er um at giera af nýiu, edr og vidhalda því sem til forna var.

23.

Kirkiu-erfidi; þat er í Reglimentinu frá 1782 þannig bodit: at kirkiu-garda og kirkiuveggi skulu bændurnir í sókninni hlada kauplaust, einnig þekia kirkiuna; þó skulu þeir fátækustu

sem

ſem eigi géta lagt ſér fœdi til, medan þeir eru frá heimilinu, ſá eina máltíd á dag, ſem kirkian leggr til; líka ſáz þeim verkfœri, ef þeir eiga þau ecki. Eins líka ſkulu bœndr, þegar ſtór kirkiu adgiörd ſkal ſké, hiálpa til at flytia vid, og önnr byggingar-efni til kirkiunnar, ſem jafnaz á ſóknarmenn ſanngiarnlega eptir hvers eins efnum. Sá ſem aſſegir at giöra nockut af þvílíku, ſkal ſtraffaz eptir lögum og lands-veniu [34]).

24.

[34]) Lögin eru ætíd dýrmæt; þó þykir mer her naudſyn at ſegia, at vid Reglimentit, ſem lagdi allt torf-verk á bœndr vid kirkiurnar, og þat án undantekníngar, feingu þeir nýa byrdi, at giöra þetta allt kauplauſt; og þar ámóti þori eg at ſegia, at þær efnudu og ríku kirkiur ávinna lítit, eda ſídr enn ecki þar vid; eg þori jafnvel at ſegia; á veſtr-landi ſtendr ſvo vel kirkiunum, ſem þeim, er eiga um þær at hirda, her af ſtór óhagnadr og ſkadi. Bœnda ſkylduverk, ſem þeir giöra med naudúng, eru ecki þeirra ſnotruſtu verk, heldr lapp, klúdr og verkleyſa; og í ſtadinn þeß, at ádr feingu kirkiurnar í hvert ſinn varanlega adgiörd, verda þær nú, vid þeßar hvers árs gagnlitlar vidgiördir, lángtum endíngar verri; og eg held eg megi ſegia, at ſú inntekt, ſem ádr var þeim nóg, bædi til byggíngar og vidhalds, verdr vid þetta ódriúgari. Mer ſýniz og ſem Kóngsbrefit frá 11ta April 1781, aptr endrnýat 11ta Aprilis 1787, lúti her á, er þat ſegir í 5ta Art.: "Forſóman á almúgans ſkyldu-verkum, er honum verda eptir lögum og ſidveniu bodin at giöra, þegar ſtór-adgiördir á at hafa vid kirkiu-byggíngar, einkum þær, hverra inntekt hrockr

24.

Þínghúß-bygging og vidhald; á fyrri tídum skal þat hafa verit venja, at halda manntals-þíng í kirkium; en í Sabbats-dags Forordníngunni frá 29da Maji 1744 var þvílikt fyrirbodit, og í þeß stad skipat, at almúginn, eptir fyrirsøgn Amtmanns og Sýslumanns tilstilli, skuli í hverri þíngþá uppbyggia hentug þínghús, þar sem naudsyn var til, og á hentugum stødum, svo sem bezt mætti fara eptir landsins ásigkomulagi. At þíng-sóknin egi at vidhalda þínghúsinu, er siálfsøgd naudsyn.

25.

Fri-flutníngr Embættismanna; hann eiga fyrst Stiptamtmennirnir, eins þeirra þiónar og

eigi til þeirra vidurhalds ꝛc." Her sýniz mer løggiafarinn ætliz eigi til, at almúginn þióni launalaust at fullríkum kirkium, sem þó margar eru, hvat og er lángt betra; þó stóls-kirkiur og nockrar fátækustu í landinu þyrftu þeß med, þá þó varla þridiúngrinn af øllum kirkium; þar á móti held eg ágætt og ómißandi, at almúginn skyldadiz til at giøra øll þeßi kirkin-verk án mótmælis, og þat allstadar fyrir vißann, edr og minni betaling enn annars, ellegar eptir samkomulagi, svo sem hver kirkia er efnud til at bitala. Þat getr þó ecki verit løggiafarans eiginleg meiníng, at þeir fátækustu, sem eigi geta fædt sig siálfir, skyldu eigi hafa mat, nema einu sinni á dag, vid svo hardt erfidi.

og fullmektugir, allstadar] hvar og hvenær þeir verda at ferdaz (í Kónglegum eyriuda-gierdum) eptir Forordníngunni frá 10da Maji 1650; þarnærst Amtmennirnir í líkum eyriudum, og fylgir þat af ádr-tédu lögmáli, med því mikill hluti af þeirra embættis-verkum er hinn sami sem á fyrri tíd hafdi Höfudsmadurinn. Í þridia lagi Biskuparnir á þeirra Visitatiu-ferdum, eptir þeirra Instrúxi 12ta Art., hvat sídan er stadfest med Köngl. brefi frá 5ta Maji 1749; í hverin tilsett er, at, fyrir utan frí-flutníuginn, skulu þeir hafa veitslur edr bordhald ókeypis; þar ámóti eiga þeir at vera sem fámennastir, svo þeir þurfi sem minst af hestum edr fólki. Fiórdi er Landfógetinn; þegar hann reisir til lög-þingis, þá flytia nockrir bændr hann, sem búa á Kóngs-jördunum í Kiósar-sýslu, eptir því sem jarda-bókin fyrirsegir, hvat og líka er gömul sidvenia.

## 26.

Fángafærsla; hér um hefir engin full-komin nidurradan verit fyrr enn nú, at þat Köngl. Danska Cancellie hefir þann 10da Maji 1788 bodit á fylgianda hátt: 1. Fángadir ódá-damenn, tugthúss-limir, og þeir sem stroknir eru úr járnum, og fángar yfirhöfud, skulu færaz af almúganum, þat er at skilia bændum á bæjum þeim, sem liggia heutugast vid þiódvegu, og þar ámóti skulu adrir í Sýslunni gialda þeim; þó eiga þeir fángar eigi hér heima, sem Sýslumenn eiga

eiga at senda til løgþíngis, hvat þeir siálfir annaz, og láta sína þióna giøra, og hefir hverr Sýslumadr þat á hendi, því þat fylgir fánga-haldinu; þat er og Sýslumannanna skylda at fœra fángana frá løgþínginu uppá sinn eiginn kostnad; en hvat vidvíkr faungum þeim, sem striúka úr tugthúsinu, þá bitalar tugthúsit þeirra fœrslu; þar ámóti kémr fœrsla þeirra flackara og lausgángara, sem dœmdir eru til tugthúsins, uppá almúgann. 2. At fœrsla þeßara fánga ecki at ské bœ frá bœ, heldr frá einni sókn til annarar, frá hreppstiórum í einni sveit til hreppstióra í annari; skulu hendur þeirra vera bundnar fyrir bak aptr, og þeir vera ánœgianlega fiølmennir, sem flytia þá; ef fánginn sleppr frá þeim sem eiga at vakta hann, þá verda þeir fyrir penínga-útlátum, edr tugthúß-straffi, hvort heldr sem hann komz í burt af vangæzlu edr med vilia þeirra. 3. Skulu fœrslumenn fá 32 ß. á hveria þíngmannaleid fyrir hvern einn fánga, sem fœriz, og þá minna, eptir því sem leidin er styttri; og til þeß at fá bitalínginn, svo almúga verdi minst þýngsla-mót at, med því at sem flestir séu um hann, þá skulu bœndurnir, sem flûttu, auglýsa Sýslumanni stadfestann reikníng af hreppstiórum fyrir umlidit ár; nidrjafnaz hann svo um allt Amtit, eptir sérhvørs bónda lausafiártiundar hæd (sem hafa skal fyrir augamid í øllu þeßu); þó gialda eigi þeir, sem ecki tiunda nema 1 Hdr. Sýslumadr skal samandraga á næsta vors

vors manntals-þíngi hvat sérhverr bóndi á at lúka, og þá greidir hann á sama þíngi bændum þeim, sem tollinn eiga fyrir fángafærsluna, svo at allt hvat hér vid er at sýsla fyrir umlidit ár, géti ordit útkliád á næzta manntals-þíngi [35]).

27.

Fiallgánga (Rétta-skil) er, at sérhverr innbúi í héradi, sem á lifandi peníng, skal á haustin, þá qvikfénadr er tekinn heim, fara einn med ødrum á fiøll þau, hvar qvikfèd geingr á sumrin, og leita þess. Ráda hér hreppstiórar til hvar hverr skal leita; verdi sá nockr, er eigi vill réttaskil giøra edr leita, þá er hann sekr hálfri mørk (2½ álnum) til Kóngs, og svari til alls þess fiár, sem séz á þeim stødum um sama mund, sem hann átti at leita; eptir Landsl. bálks 49da Kap. og alþíngis-dómi frá 1682. Rökin til þessar almennings-skyldu, er naudsyn sú at hverr hlýtr at hiálpa ødrum; þar sem vel framfer um fiallagaungur, giørir þat tvøfallt gagn, nefnilega at fé missiz eigi, líka hitt, at sauda-þiófnadr fær hér eigi heima, edr og misgrip, at annarr taki enn eigandi, hvat þó aud-veld-

[35]) Þó þessi zia grein se audskilin, þá mun ørdugt verda at koma fánga-færslunni á gáng eptir henni; launin eru sáralítil, at 2 menn og hestr skuli hafa 32 ß. fyrir þíngmanna-leid; þó bætir þat eigi á, at bída eptir þeim í 6, og máske 18 mánudi.

…eldliga skéd gæti, ef eigendr væru eigi til stadar né fylgduz at [36]).

[36]) Fylgiandi eru og viðar árligar greidslur á sínum stödum:

1. Í Vestmann-eyium geldz Sýslumanni hverr hundradasti bezti þorskr; þat mun vera gømul vidtekt, en er nú ordit at løgum.
2. Vertollr er goldinn á Vestfiørdum af øllum, sem róa í einni veidistød, at frátekunum jardar-ábúanda, til lands-drottins; hann er eigi allstadar eins mikill, og sumstadar geldz eigi epter skipin; vídast er hann 10 fiskar, og sumstadar geldz eigi nema hálfr tollr, þegar skipveriar eiga siálfir búdina. Þetta er almennt í Isafiardar-, Bardastrandar-, Dala-, og í nockrum parti Snæfells-sýslu.
3. Segl-fiskr tekz fyrir Iskli, og máske vídar; þat er einn fiskr af hverium ródri, þegar seglit er brúkat, og er gømul venia.
4. Skips-uppsátr bitalaz í Dritvík med hálfvætt fiskiar, er tekin er af óskiptum afla.
5. Nauts-tollr; hann er 2 álnir; í hann hefir verit almenniliga goldit kálf-skinnit, duggara-sokkar, edr þeirra virdi í peníngum, edr og nautit er fódrat á vetrardag í 1 viku. Hann er vída tekinn á Islandi, helst vid siáfar-sídu, hvar graslítit er og nauta-fátt, medan nautit er á heyi, en óvída þar fyrir utan; kúuni er og gefin visk af gódu heyi. Ecki finn eg toll þennann í løgum; þó er hann bædi sanngiarnlegr og miøg gamall. Má vera, at fleira þesskonar se á Austr- edr Nordr-landi, sem mer er eigi kunnugt um.



